

# VERKALÝÐS BLAÐIÐ

*Málgagn Einingarsamtaka kommúnista (marx-leninista)*

3. tbl. 11. febr. - 24. febr. 1980. **300 kr.**



*Frá fundi farandverkafólks í Grindavík*

# Atvinnurekendur hafa samtök um fæðis kostnað í Grindavík

4–5



## *Barátta gegn báðum risaveldunum — eða hvað?*

Innan Samtaka herstöðvaandstæðinga höfum við kommúnistar staðið í ærnu streði við að berja það inn í hausinn á alþýðubandalagsmönnum og fleirum að ekki tjói að berjast gegn bandarískum her og vestrænum hernaðarbandalögum án þess að sveifla brandinum í austur í leiðinni, og setja Sovétríkin á sama bekk. Þetta hafa alþýðubandalagsmennirnir og meðreiðarsveinar þeirra - svo það hugtak sé fengið að láni frá íhaldinu - ekki viljað sætta sig við.

Nú bregður hins vegar svo við að á meðan allur heimurinn keppist við að fordæma innrás Sovétmanna í Afganistan og heimta bròttför alls erlends herliðs af afgönskum heiðum, að Alþýðubandalagið þverneitar að taka þátt í neinum mótmælum til að fylgja þessu máli eftir nema jafnframt verði ráðist gegn hinu stórveldinu, Bandaríkjunum; Víetnam, Angóla, Guatemala og halarófa af öðrum misindisverkum þeirra rakin upp í sömu andránni og innrásin í Afganistan.

Ég sé ekki betur en að hér höfum við kommúnistar unnið mikinn pólitískan sigur á stefnu Alþýðubandalagsins. Í fyrsta sinn er það tilbúið til að heyja baráttu gegn Sovétríkjunum um leið og það berst gegn Bandaríkjunum, þótt auðvelt sé að fá það til að berjast gegn Bandaríkjunum um leið og það berst gegn Sovétríkjunum!






## BERLÍN 1936/1980 MOSKVA

Þessa mynd gerði John Heartfield í tilefni Olympíuleikanna í Berlín 1936. Myndin Sýnir Göbbels, einn æðsta mann þriðja ríkisins. Í dag er staðurinn Moskva, og margt er líkt með fyrirstríðs Þýskalandi og Sovétríkjunum í dag. Þá stóð 2. heimstyrjöldin fyrir dyrum en nú er sú þriðja yfirvofandi.

## samtíningur

Framhaldslíf......

Hér áður fyrr þegar Samtíningur var uppá sitt besta lifði hann sníkjulífi á óförum vina okkar í KFÍ/ML Nú hefur þeirri stoðinni verið kippt undan starfi voru þar sem hnífurinn virðist ekki ganga á milli Eikaranna og Kfí. Aðdáendur vorir verða því að búa sig undir lægð í snjöllu hugmyndaflugi um sinn - meðan söðlað er um - eða ný stefna tekin upp. Helst virðist Alþýðubandalagið ætla að sjá fyrir efnivið í dálka vora og er því ætlunin að fitna um stund í kjölfari allàballanna í víðu samhengi.

Í samhengi...

Alþýðubandalagið kaus að skoða innrásina í Afghanistan"í víðu samhengi" og gat því ekki verið með í mótmælastöðu fyrir utan sendiráð Sovétríkjanna hér um daginn. Hið víða samhengi fékkst aðeins ef kjörorðin um herlaust land og gegn NATO væru með í samstöðustarfi með Afghönum sögðu samningsliprir allaballar og sögðu svo bless. Eftir sátu ungir sjálfstæðismenn og eikararnir ásamt hinum.

En þeir minni spámenn sem svo prinsipfastir sátu á undirbúningsfundum mótmælastöðunnar, voru hafðir að fíflum, í víðu samhengi séð. Samtíningur bendir þeim hógværlega á að um leið og þeir sátu svo vítt sjáandi, voru aðalforystumenn þeirra að makka sig inn í ríkisstjórn þar sem reykurinn af NATO-andstöðu er ekki einu sinni á borðum. Minni sprauturnar fá að sýna"róttækni" sem þykir henta á hinum lægri plönum meðan alvörumennirnir á toppnum gera allt annað.

Og því má bæta við að það þykir gott fyrir innanhúsfriðinn í bandalaginu að vera ekki með í neinu brölti gegn rússum. Ýmsir þekktir fulltrúar flokksins eru nefnilega á þeirri skoðun að engin innrás hafi verið gerð. Málin eru þannig í furðu víðu samhengi-héðan séð.

Vanheilagt bandalag....

Innrásin í Afghanistan gerði fleira en að sýna þversagnir í starfi og stefnu allaballa. Hún allt að því sannaði eina af kenningum Brésnefs og Ólafs Gíslasonar (sá sem ekki veit enn af innrás Víetnama í Kampútseu). Samband ungra Sjálfstæðismanna og maóistarnir í Eikinni og Kfí stóðu nefnilega saman fyrir framan sovéska sendiráðið og píptu á sovéska heimsvaldastefnu. En eins og Brésnef sagði (eða Ólafur) þá má rekja alla óáran í heimsmálum til bandalags milli Peking og Washington. Hér heima varð innrásin til þess að endurspeglun þess kom upp á yfirborðið í Garðastrætinu. Brésnef er því ekki aðeins kenningasmiður, hann aðlagar heiminn að kenningum sínum ef þær virðast ekki passa við fyrstu sýn.

## erlent viðhorf

# Kúbanir seilast til áhrifa í Nicaragua


Tomas Borge

Greinilegar tilhneigingar hafa að undanförnu verið til fylgisspektar alþýðubyltingarinnar í Nicaragua við utanríkisstefnu Kúbu-Sovétríkjanna. Ekki síst má rekja það til Kúbumanna.

Nicaragua var þannig meðal þeirra ríkja sem greiddu atkvæði gegn ályktun Allsherjarþings SÞ um að erlendar hersveitir skyldu hverfa burt úr Kampútseu. Hins vegar hefur Nicaragua ekki stutt Sovétríkin opinberlega á þingi SÞ varðandi hernám Afghanistan. Við atkvæðagreiðsluna þar að lútandi greiddi Nicaragua ekki atkvæði.

Xinhua-frásögn.

Kínverska fréttastofan Xinhua hefur haft fréttaritara í Nicaragua. Í frásögn hans þaðan er fjallað um áhrif Kúbumanna í landinu. Þar segir m.a.:

"Í Nicaragua tekur maður eftir að Kúbumenn blanda sér í innanlandsmál landsins í vaxandi mæli.

Okkur var sagt að eftir að einræðisstjórn Somosar hafði verið steypt af stóli sé daglegt flug fram og til baka milli Havanna og Managua. Æðstu foringjar Sandinistahreyfingarinnar, kúbanskir og nicaraguanskir ráðherrar, háttsettir herforingjar, blaðamenn og viðskiptamenn ferðast fram og til baka milli höfuðborganna tveggja.

Kúbanskar fréttir og ráðgjafar.

Barri Cada, málgagn Sandinistahreyfingarinnar byggir að mestu leyti á fréttagreinum frá Kúbanska blaðinu Prensa Latina og útlit og still er næstum eftirlíking af kúbanska blaðinu Granma. Útvarpsstöðvarnar Radio Sandino og Rödd Nicaragua, sem eru reknar af ríkisstjórninni, senda á sama hátt út fréttir sem eru skrifaðar af kúbumönnum.

Kúbumenn hafa einnig sent til Nicaragua mikið lið hernaðarlegra og tæknilegra ráðgjafa, sem starfa á ýmsum sviðum í Nicaragua. Utanríkisráðherra Nicaragua hefur viðurkennt að kúbanskir hernaðarsérfræðingar þjálfi hersveitir Nicaraguamanna. Einnig eru hermenn sendir til Kúbu til þjálfunar.

Sérstakar tilfinningar.

Embættismenn í Nicaragua hafa lýst yfir að foringjar Sandinista hafi "sérstakar og djúpar tilfinningar í garð Kúbu og Víetnams; (Kúbu og Asíu). Sá maður hrifamestur í nicaraguönsku ríkisstjórninni er innanríkisráðherrann Tomas Borge góðvinur kúbanskra leiðtoga ......."

Xinhua-frásögnin leggur þó áherslu á að Kúba er ekki eina landið sem til er tekið í Nicaragua. Venesúela, Mexikó, Costa Rica, Spánn og Panama veita landinu aðstoð og Bandaríkin eru enn sem fyrr það land sem leggur mest til af efnahagsaðstoð.

(Lausl. þýtt úr Arbejderavisen nr. 3 1980).

*Staða kjaramálanna*

# Verður engin grunnkaups hækkun?










Hvort meta þau meira, flokkinn eða verkafólkið?

"Kjarakröfurnar miða að því að bæta sérstaklega hag þeirra lægst launuðu, ná kaupmætti sólstöðusamninganna 1977 og auka félagsleg réttindi." Svo segir í samþykkt Alþýðusambandsráðstefnunnar frá í janúar.

Þessu skal síðan náð fram með almennri 5% grunnkaupshækkun og verðbótakerfi sem hefur í för með sér nokkra kaupmáttaraukningu fyrir laun undir 300.000 en töluverða kaupmáttarrýrnun fyrir föst mánaðarlaun yfir 400.000 kr. Annars staðar í blaðinu verður gerð grein fyrir einstökum þáttum kröfugerðar ASÍ.

Auðveldara áð bakka.

Hverjar skyldu vera raunverulegar orsakir "hógværðar" ASÍ í kröfugerð sinni? Það virðist ljóst að helstu forkólfar ASÍ gangast inn á að nú sé ekki svigrúm fyrir kauphækkanir. Staða atvinnuveganna og þjóðarbúsins leyfi ekki slíkt.

Einnig virðist trúlegt að Alþýðubandalag og Alþýðuflokkur hafi ekki viljað spilla möguleikum sínum í stjórnarmyndunarviðræðunum. Áhrifamestu menn ASÍ eiga einmitt sæti í miðstjórnum þessara flokka. Má þar nefna Jakann, Benedikt Davíðsson, Eðvarð Sigurðsson, Guðjón Jónsson og Ásmund Stefánsson í Alþýðubandalaginu.

## innlent viðhorf

Karl Steinar, Þórunn Valdimars og Jón Helgason eru öll áhrifamenn í Alþýðuflokki. Í Stjórnarmyndunarviðræðunum hefur Abl. lagt til 0,5% kjaraskerðingu, en Afl. a.m.k. 5%. Hvor samþykktin skyldi nú vera þessum mönnum kærari, samþykkt ráðstefnu ASÍ eða samþykkt flokksins?

. En það er a.m.k. ljóst, að það er auðveldara að bakka úr 5% niður í núll heldur en úr 13% niður í núll eða minna.

Öðrum hótað.

Um leið og þessi grunnkaupshækkun er sett fram hefur öðrum stéttarsamböndum verið hótað. "Við áskiljum okkur rétt til að fara fram á meira, ef aðrir fá meira" segja forystumenn ASÍ. Þarna er vitanlega verið að beina spjótum að BSRB og því beint til ríkisins að það skuli ekki voga sér að gera betri samninga við ríkisstarfsmenn en þá sem ASÍ gerir.

Óánægjan mikil

"Landssambönd og félög semji hvert fyrir sig um sérkröfur eftir því sem við á." Þetta er ein af niðurstöðum ASÍ-ráðstefnunnar. Ef þetta verður svo í framkvæmd, er það vissulega skref fram á við frá gerð seinustu kjarasamninga. Vegna þeirrar miklu "hógværðar" sem fram kemur í sameiginlegu kröfugerðinni eru uppi raddir í ýmsum stéttarfélögum um að nýta þennan möguleika, þ.e. sérkröfurnar til að reyna að bæta hag félagsmanna, svo einhverju nemi. Á þennan hátt m.a. birtist óánægja félaganna með þátttöku í samflotunum.

Brothætt hræðslubandalag

A.m.k. sum félög taka þátt í samflotinu nauðug viljug. Menn óttast afleiðingarnar af því að draga sig út, ekki fyrst og fremst einhverjar aðgerðir af hálfu atvinnurekenda heldur miklu fremur hefndaraðgerðir og útilokun af hálfu helstu forkólfa ASÍ. Sjálfsagt minnast menn enn aðgerða Grafíska sveinafélagsins haustið '79 sem ASÍ braut á bak aftur með hótun um að snúast gegn því. Óánægjan með samflotin er orðin mikil. Brothætt hræðslubandalag er sjálfsagt nothæf nafngift yfir það.

Áhersla á sérkröfurnar

Stéttarfélög þurfa mikinn styrk til að brjótast undan þeim almenna ramma sem ASÍ er búið að setja. Verði það ofan á hjá einhverju stéttarfélagi eða fleirum saman að reyna slíkt er brýnt að aðrir hópar launafólks sýni þeim virkan stuðning. Takist að brjóta ísinn, verður eftirleikurinn auðveldari fyrir aðra. Staðan í flestum stéttarfélögum býður hins vegar ekki upp á neitt slíkt uppgjör. Sú leið sem virðist því helst vera fær fyrir flesta er að leggja mest upp úr sérkröfunum og reyna að ná þeim árangri þar, sem styrkur félagsins býður upp á.

Ragnar

VBL

Útgefandi: Einingarsamtök kommúnista (marx-lenínistar)
Ritstjóri og ábm.: Ómar Harðarson
Aðsetur: Frakkastígur 14 (í húsnæði Októberbúðarinnar)
Opnunartími: kl. 8.30 - 12.30 alla virka daga
Sími: 29212
Pósthólf: 5186, 125 Rvík.
Gírónr.: 12200-9
Prentað í Jósepsprent s.f.

# Verkalýðsblaðið og Stéttabaráttan sameinuð

Mikill sigur hefur nú verið unninn á þrætubókarlistinni og einangrunarstefnunni. Einingarsamtök kommúnista og Kommúnistaflokkur Íslands hafa komið sér saman um að fyrsta skrefið í átt til sameiningar marx-lenínista á Íslandi verði stigið með sameiningu Verkalýðsblaðsins og Stéttabaráttunnar í eitt blað.

Svo vel hefur gengið að undirbúa sameiningu blaðanna, að líklegast verður þetta tölublað Verkalýðsblaðsins síðasta tölublaðið. Þennan hraða má telja undraverðan þegar tekið er tillit til þess að marx-lenínistar hafa verið sundraðir í meir en 5 ár og oftast ekki mátt talast við. "Það er eins gott að klemma sig ekki" sagði einn "eikari" þegar honum var sagt frá þessum snögga samruna.

Nafn nýja blaðsins hefur ekki verið endanlega ákveðið en líklega mun það bera merki samrunans fyrst í stað og nefnast þá "Verkalýðsblaðið-Stéttabaráttan". Annars eru allar góðar nafnhugmyndir velþegnar.

Einnig er í ráði að nýja blaðið komi út hálfsmánaðarlega til að byrja með, en upp úr samrunanum verði hafin mikil og öflug útbreiðsluherferð til að efla blaðakost marx-lenínísku hreyfingarinnar á Íslandi.

## Enginn verður óbarinn biskup

Í fyrsta tbl. VBL á þessu ári ræddum við í leiðara um breytingar á blaðinu, samfara ráðningu nýs starfsmanns. Eftir tvö blöð í nýjum stíl er ljóst að reynslan er harður kennari. hugmyndir okkar um breytingar eru í ýmsu vangerðar, framkvæmd þeirra afbökuð og heildarstefnan lítt rædd. Þannig verða lesendur að vera viðbúnir loforðum sem lofað er upp í ermina, dálkum sem hætta að birtast og öðrum álíka snöggum breytingum.

Sameining Stéttabaráttunnar og Verkalýðsblaðsins gerir ástandið einnig verra að þessu leyti.

Það er því ekki annað að gera en að dusta rykið af þolinmæðinni og þreyja þorrann og góuna með okkur á ritstjórn Verkalýðsblaðsins. Væntanlega rætist úr öllum erfiðleikum, ekki síst verður það með hjálp ykkar, lesendur góðir.

Skilafrestur greina og gagnrýni er að öllu óbreyttu 6 dögum fyrir útgáfudag. Næsti skilafrestur er miðvikudaginn 20. febrúar.

óhs.



Pentvillupúkinn

## Prentvillupúkinn beygir sig

Fyrsta orrustan við fjóspúka okkar á Verkalýðsblaðinu, prentvilluskrattan, hefur unnist. En stríðið er þó síður en svo á enda, ef þá nokkurn tíma.

Okkur tókst með því að bíta á jaxlinn að fækka villunum úr 112 í 53. En betur má ef duga skal. 53 villur er of mikið.

Aðeins ein alvarleg villa var að þessu sinni. Opnugrein, Marxisminn um einokunarauðvaldið, átti upphaflega að birtast í 1. tbl. 1980. Við gleymdum að lagfæra hana með tilliti til frestunar á birtingu hennar.

Einnig er klúðurslega að farið, bæði með grein húsmóður á 6. síðu og upphaf greinaflokks á 7. síðu. Hvergi kemur fram í greininni um Rauðsokka, að hún er framhaldsgrein. Ekki er gerð grein fyrir því að greinin á 7. síðu um efnahagsstyrk risaveldanna er 1. greinin af þremur, auk þess sem sjálfsagt hefði verið að gera henni meira undir höfði en gert var.

Leiðin til að bæta enn betur um og tryggja fyrsta sigurinn er að hafa fasta prófarkalesara við blaðið. Þegar við vorum að setja upp 2. tbl. birtist í dyrunum gallvaskur hugsjónarmaður sem hafði runnið til rifja útlit á 1. tbl. Hann bauð fram velþegna aðstoð sína í baráttunni við prentvilludrauginn.

Okkur vantar þó fleiri - enn eru 53 villur eftir.

Ritstj.

## Nýtt íslenskt leikrit

# Heimilisdraugar



Þetta leikár hjá Alþýðuleikhúsinu er helgað nýjum íslenskum leikritum og það fyrsta á dagskrá var frumsýnt í Lindarbæ 3. febrúar, Heimilisdraugar eftir Böðvar Guðmundsson.

Leikritið fjallar um hvert heimilisböl það er á Íslandi að koma sér upp þaki yfir höfuðið. Eða réttara sagt, að gera tilraun til þess því einhvern veginn gengur þetta allt á afturlöppunum hjá fólki sem ekki kann á kerfið, ekki hefur sambönd, ekki er í réttum flokki, ekki skiptir við réttan banka, ekki.... Já, sumum gengur svo lygilega illa, að velta má fyrir sér, hvort ekki séu draugar með í spilinu. Slíkir draugar fá fremur skorinorða afgreiðslu hjá Böðvari og ættir raktar til auðvaldsins. Er það raunar þörf ábending.

Leikurinn er byggður upp á fremur stuttum atriðum, sem tengd eru saman með ívafi barnanna á heimilinu, og er það í bundnu máli. Nokkuð þótti mér sýningin þungur sleði að draga, þótt víst sé að leikarar og aðrir sem við sýninguna komu lögðu sig þar alla fram.

Mér verður á að hugleiða, hvort Böðvar hafi ekki sett saman of harðsoðinn sósíalrealisma. Ofboðlítil angist, ögn af trega, fáránleg ærsl og grátbrosleiki. Eitthvað af því þeli spunnið vantaði í bland við togið. Og jafnframt því meiri hnitmiðun.

Dæmi þar um, að ærið var ættfærslan heimilisdrauganna einfölduð. Fasteignasalar, bankastjórar, læknar, sálfræðingar, prestar og fulltrúar í einum graut. En sannarlega koma fyrir í leikriti Böðvars margir góðir sprettir.

Mér virðist leikstjórinn, Þórhildur Þorleifsdóttir, ná fram sem hægt er að ætlast til miðað við efnivið allan. Þ.e. ef ekki er ætlast til þess af henni að umskapa leikritið í stað þess að túlka.

Leikurum tekst yfirleitt vel upp. Þar mæðir mest á Sólveigu Hauksdóttur og Birni Karlssyni. Það er vanþakklátt hlutverk að leika venjulegt fólk.

Bjarni Ingvarsson hefur einna heilsteyptasta hlutverkið og tekst mjög vel upp. Þá koma fram Anna Einarsdóttir, Kolbrún Halldórsdóttir, Edda Björgvinsdóttir, Gunnar Rafn Guðmundsson og Gísli Rúnar Jónsson, sem bregður sér í allra kvikinda líki, og er hvert með sínu lagi.

Leikmynd og búningar eru eftir Valgerði Bergsdóttir, hvort tveggja með miklum ágætum. Lýsing Ástralíumannsins David Walters er hnitmiðuð. Tónlist Áskels Mássonar er áferðarfalleg og grímur Gísla Rúnars á heimilisdraugana miklir persónuleikar, þó án þess að minna á nokkurn sérstakan úr þjóðlífinu.

Böðvar Guðmundsson skrifaði fyrstu leikritin sem Alþýðuleikhúsið sýndi fyrir 5 árum. Það er bæði stuttur tími og langur. Hefur kannski höfundur og leikhús vaxið á meðan, hvert á sinn hátt? Var það samstilling sem vantaði? Ég hvet sem flesta til að sjá Heimilisdraugana í Lindarbæ og athuga málið.

ke

# 8. mars hreyfingin lögð niður



26. janúar s.l. ákvað fundur í 8. mars hreyfingunni að hætta starfsemi hennar. Í ályktun frá hreyfingunni kemur fram að um tvær ástæður sé fyrst og fremst að ræða. "Annars vegar sú, að ekki er ástæða til að hafa tvær kvennahreyfingar með svo líkan grundvöll sem 8MH og Rsh hafa. Hins vegar rangar starfsaðferðir við stofnun hennar." Í ályktuninni kemur fram að ekki er alger einhugur um fyrra atriðið.

Þá segir í ályktuninni að Einingarsamtök kommúnista hafi haft frumkvæði að stofnun 8. mars hreyfingarinnar. Samtökin hefðu látið undir höfuð leggjast að leita eftir samstarfi við Rsh við það meginmál 8MH í upphafi að gera 8. mars að baráttudegi. Hins vegar hafi ýmsu verið slegið föstu um stefnu Rauðsokka sem ekki hafi staðist nánari skoðun.

Þá segir í ályktun 8. mars hreyfingarinnar: Á stofnfundi 8MH í febrúar 1978 "var lagður fram fullmótaður grundvöllur fyrir hreyfinguna, án þess að leita eftir hugmyndum frá fjöldanum. Það kom ekki fram við stofnun hreyfingarinnar að EIK (m-l) ættu frumkvæði að þessu, heldur kom það í ljós smám saman. Þetta skapaði tortryggni og fældi fólk frá."

Í lok ályktunarinnar er bent á að starf 8. mars hreyfingarinnar hafi ekki verið með öllu illt. Hún verkaði hvetjandi á umræðu um jafnrétti og kvennabaráttu. Hún átti stóran hlut í að vekja athygli á 8. mars sem baráttudegi kvenna. Og hún átti frumkvæði að samstarfi ýmissa félagasamtaka um dagvistunarmál fyrri hluta árs '79.

### Vísitölufiktið hefur brugðist

Vísitöluskerðingar með svokallaðri „krónutölureglu" eða „vísitöluþaki" hafa verið margendurteknar af stjórnvöldum. Aldrei hafa þær þó ráðið neina bót á vandanum, heldur jafnan skapað nýtt og aukið misrétti.

Ástæðurnar eru líka augljósar hverjum þeim, sem grandskoðar þessi tvö uppáhaldsáróðursbrögð stjórnmálamanna sem fjölmiðlar hafa magnað.

Launafarvegir í þjóðfélaginu eru fjölmargir — og er grunnkaupið aðeins einn af mörgum. Hinir heita ýmsum nöfnum — námskeiðsálag — yfirvinnuálag — hæðarálag — verkfæraálag — bónushækkun — uppmælingarálag — verkstjórnarhækkun — aflahlutur — fæðispeningar — aldurshækkun — starfsþjálfunarhækkun — óþrifaálag — viðgerða- og breytingaálag — þunga- og erfiðisálag — fjarverutillegg o.fl. o.fl., að ógleymdum sjálfum yfirborgununum.

Flestallar þessar greiðslur eru óskertar prósentuhækkanir ofan á mjög lágan grundvöll — og á þær koma því yfirleitt fullar vísitöluhækkanir og jafnvel stundum meira (þar sem ein prósentuhækkunin kemur stundum ofan á aðra prósentuhækkun).

Þótt grunnkaupskvíslin sjálf sé stífluð, t.d. með „krónutölureglu" eða „vísitöluþaki", þá brenglar það bara og breytir fastlaunakerfi eins og hjá opinberum starfsmönnum en allar aðrar rásir í launamálum eru áfram óbeislaðar. — Og misréttið vex en minnkar ekki.

## Úrklippa endurbirt

Eins og menn hafa örugglega rekið glyrnurnar í reyndist úrklippa, sem fylgdi viðtali við Harald Steinþórsson, framkvæmdastjóra BSRB, gersamlega ólæsileg. Við verðum því að birta hana aftur og treysta á guð og lukkuna og betur takist til í þetta sinn.

*Framkvæmdanefnd miðstjórnar EIK (m-l):*

# EIK (m-l) breyta stefnu

1. hluti.

Eftirfarandi grein um stöð EIK (m-l) og leiðréttingaruppgjör innan þeirra hefur Ari T. Guðmundsson samið fyrir hönd Framkvæmdanefndar miðstjórnar EIK (m-l).
Vegna plássleysis verðum við að skipta greininni í þrjá hluta. Fyrsti hlutinn birtist hér með.

### Betra seint en aldrei.

Einingarsamtök kommúnista eru nú á breytingarskeiði. Svipað gerist með kommúnískum hreyfingum víða um lönd. Betra seint en aldrei.

Það varð til fersk marx-lenínísk hreyfing á Vesturlöndum í kjölfar klofningsins í kommúnistaflokkum heims á 6. áratugnum. Þróunin hefur staðfest að hugtök eins og endurskoðunarstefna, svik við marxismann og arðránsstefna eiga svo sannarlega við sovéska flokkinn og fylginauta hans alls staðar. Á hinn bóginn er líka orðið ljóst að hreyfingin sem eftir stóð fylgdi sjálf óþjálli og einangrandi stefnu.

Í uppgjörinu við falsmarxisma og hægristefnu hneigðist hún of langt til vinstri. Ýmis konar öfgar úr kínversku menningarbyltingunni áttu sinn þátt í þessu. Það minnir okkur á að sjálfstæði marx-lenínísku hreyfinganna í hverju landi var of lítið.

### Ekki innantóm naflaskoðun

Einingarsamtökin vilja breyta stefnu og starfsháttum til batnaðar. Þau hófust handa við það í ársbyrjun 1979, en hafa náð skammt.

Samtökin voru stofnuð fyrir 5 árum. Þau eru enn lítið og áhrifasnauð miðað við þann starfstíma. Við höfum þó unnið okkur sess í stjórnmálahreyfingunni. Margir líta á okkur sem einlæga baráttumenn sem vinna að myndun nýs verkalýðsflokks á Íslandi.

Alvara Einingarsamtakanna sést á því að þau leggja vinnu í að endurmeta fyrri störf sín og þau eru fremur ófeimin við að éta ofaní sig mistök og röng stefnuatriði.

Ýmsir hafa gagnrýnt okkur fyrir of mikla naflaskoðun. Gagnrýnin er réttmæt. En það er mat á því sem samtökin gerðu vel og illa, ekki síður. Án þess getum við ekki leiðrétt okkur. Hitt er svo annað mál að EIK (m-l) verða að huga meira að framtíðinni en fortíðinni.

### Harðlínan hefur tafið okkur.

Einingarsamtökin hafa náð eyrum mörg hundruð baráttusinna með marx-lenínisma sinn - verulega gallaðan. En þau hafa komið fram við fólk með harðlínu að leiðarljósi þannig að stór hluti þessa hóps hefur ekki viljað ganga til liðs við samtökin. "Vinstri" róttækni og endurskoðunarsinnaðar villur Kommúnistasamtakanna (KSML, 1972-'76) og seinlæti Kommúnistaflokksins (KFÍ/ML) við að gera upp við þá stefnu hefur lagst á sömu sveif. Það verður því að líta svo á að marx-lenínska hreyfingin hafi ekki komið fótunum undir kommúnískan verkalýðsflokk á hæfilegum tíma vegna mistaka, rangra stefnuatriða og barnasjúkdóma.

Þessu upphafsskeiði ætti að vera unnt að ljúka og því verður að ljúka. Breytingar og hugmyndabarátta - framþróun - eru reyndar lífsmörk með pólitískum samtökum. Hver man eftir því að forysta Alþýðubandalagsins (eða hinna þingsalaflokkanna) viðurkenni mistök eða hafi tilburði til gagnrýnins mats á flokksstarfinu?

# Uppstokkun á flokkakerfinu?



"Þröngt mega sáttir sitja."

Frumkvæði dr. Gunnars Thoroddsen, varaformanns Sjálfstæðisflokksins, að stjórnarmyndunarviðræðum við Framsóknarflokk og Alþýðubandalag, kom eins og sprengja inn í stjórnmálaheiminn um síðustu mánaðamót

Í eftirfarandi grein hugleiðir höfundur hvað þessi klofningur innan Sjálfstæðisflokksins kann að hafa í för með sér fyrir stjórnmálaþróunina næstu árin.

Þegar þessi grein er skrifuð er orðið ljóst að dr. Gunnar Thoroddsen hefur tekist að mynda stjórn með Framsókn og Alþýðubandalagi.

Höfundur hefur enn ekki séð málefnagrundvöll þessarar stjórnar. Ýmislegt hefur verið þó sagt og skrifað um hann. Á þessu stigi málsins er þó ekki rétt að vera með neina sleggjudóma. Málefnagrundvöllur er plagg sem þarf að skoða í ró og næði. Að þessu sinni mun ég því ekki fjalla um hann, heldur ræða frekar um þær afleiðingar sem klofningur Sjálfstæðisflokksins kann að hafa í för með sér.

### Stjórnmálaflokkar eru breiðfylkingar

Öðru fremur má segja að stjórnmálaflokkar séu breiðfylkingar. Það er það marglitur hópur sem safnast í þá og fylkir sér um þá, að raunverulegan stefnugrundvöll þeirra má í flestum tilfellum orða í einni setningu. Fyrir allmörgum árum gerði málfundafélag eins menntaskólans í Reykjavík könnun á stefnumun þingflokkanna sem sýndi að ýmsu leyti réttmæti þessarar staðhæfingar. Í ljós kom að stefnuágreining var ekki að finna hjá öllum flokkunum 5 (SFV voru þá enn lifandi) nema í einu máli, þ.e. herstöðva- og varnarmálum.

### Uppstokkun í vændum?

Allt frá fyrri heimsstyrjöldinni hefur verið hægt að flokka íslenska kjósendur í 4 meginfylkingar:
Íhaldsmenn+frjálslyndir hægfara umbótasinna, sósíaldemókratar og vinstri sósíalistar+kommúnistar.

Á grundvelli þessarar fylkingaskipanar hafa íslensku stjórnmálaflokkarnir myndast og þróast.

Margt bendir nú til þess að uppstokkun sé í vændum á flokkakerfinu. Innan Sjálfstæðisflokksins fer nú fram uppgjör sem er annað og meira en persónutogstreita.

### Tveir armar

Deilur Gunnars Thoroddsen og flokksforystu Sjálfstæðisflokksins endurspegla að verulegu leyti uppgjör innan flokksins milli íhaldssama "frjálshyggjuarmsins" sem túlkar í veigamiklum atriðum afstöðu einokunar-

frh. á bls. 7.

Það var í snjókomu og skafrenningi sem Baráttuhópur farandverkafólks á Faxaflóasvæðinu lagði upp til fundar með kollegum sínum í Grindavík. En Bjarni rútubílstjóri stóð sig með þrýði og skilaði öllum á réttum tíma á fundinn, þrátt fyrir að seint hafi verið lagt af stað.

Þegar komið var í Festi var slæðingur af fólki komið á staðinn. Í stað þess að vinda sér strax í að hefja fundinn byrjuðu félagar Baráttuhópsins á að setjast við borðin, skiptast á kveðjum og ræða málin við farandverkafólkið í Grindavík. Ánægjuleg tilbreyting það frá t.d. fundum í Dagsbrún þar sem foringjarnir sitja í hásæti uppi á sviði en vinnulýðnum ætlað það hlutverk að klappa og rétta upp hendur.

*Frá fundi farandverkafólks í Grindavík*

# Atvinnurek
# fæðiskostn

### Þórður Hjartarson

Fundurinn hófst svo með framsögu Þórðar Hjartarsonar. Hann kom víða við. Hann benti m.a. á að atvinnulíf bæði til sjávar og sveita væri borið uppi af farandverkafólki, ekki síst vegna þess hversu miklar sveiflur væru í atvinnulífinu. Samt væri aðbúnaður og aðstaða þessa fólks yfirleitt afar slæm. Nokkrir atvinnurekendur væru til sem gæfu fólki sínu sæmilegan mat að éta og sæu því fyrir sæmilegu húsnæði. Hinir væru þó mikið fleiri sem byðu okurprís á matnum og húsnæði sem varla væri boðlegt hrossum. Af hverju sætti farandverkafólkið sig við slíkt? Jú það vill frekar sætta sig við slíkt en tímabundið atvinnuleysi.

Þá ræddi Þórður um viðbrögð forystu verkalýðshreyfingarinnar. Hún kæmi jú grátbólgin á fundi og lofaði öllu fögru - en setti síðan málin í nefndir og það er vísasti vegurinn til að svæfa málin.

### Jakob Jónsson

ræddi síðan um aðbúnað í verbúð sinni. Hann vinnur hjá Gjögri h.f. Hann sagði: Hreinlætisaðstaðan er léleg - vægast sagt. Í sturtuklefanum er gat á veggnum inní borðsal. Ef maður fer í sturtu þá lekur þar inn. Það er dálítill galli að það kemur lítið annað en heitt vatn úr sturtunni, þannig að maður kemur hálfsoðinn úr baði. Þarna eru vaskar og speglar sem er allt í lagi með. Hins vegar eru engir hankar eða hillur fyrir handklæði, tannkrem, busta o.f.h. Maður verður að leggja allt á gólfið. Það er kannski allt í lagi því þau eru skúruð reglulega. Þarna er einn bali til að þvo þvott, hann er bara svo götóttur að það lekur allt vatn úr honum. Við verðum því að troða fötunum í balann og stappa svo í honum meðan við förum í sturtu. Herbegin eru kannskt ágæt. Það eru um það bil 5 litir á veggjum í mínu herbergi, gulur



Úr verbúð Hraðfrystihúss Grindavíkur. Í máli eins ræðumanna k
að umgengni færi mikið eftir aðbúnaðinum

Allar myndi
í Festi eru
hópi verkaf



Þórður Hjartarson

mánuði og enga fengið. aðstaðan er slæm í verbúðinni. Öll hreinlætisaðstaða er sameiginleg með körlum. 3 klósett eru þarna og 2 sturtur, sem stundum eru í lagi. Þvotta og baðaðstaða er á sama stað og 1 þvottavél, svo það má ímynda sér örtröðina eftir hvern vinnudag. Við erum einu stúlkurnar í verbúðinni - og það er dálítið slæmt um helgar þegar karlmennirnir eru á fyllirí. Þeir hafa varla fyrir því að banka þegar þeir ryðjast inn á nóttunni.
Maturinn er slæmur og hræðilega dýr. Við erum hins vegar hættar að borða í mötuneytinu, kaupum okkur



Jakob Jónsson

að. Starfsmenn Sementsverksmiðjunnar borguðu 2000 kr. á mánuði en farandverkafólk t.d. í Höfn í Hornafirði þyrftu að borga allt að 237.000 kr.

Gunnar Tómasson sagði að 3 atvinnurekendur væru mættir á fundinn til að hlusta og reyna að bæta úr, síðar meir. Hann sagði að atvinnurekendur vildu vel og sviði það að geta ekki tekið vel á móti fólkinu.

Páll Pálsson upplýsti að atvinnurekendur í Grindavík hefðu með sér óformleg samtök um fæðiskostnað í verbúðunum.



Sheila Hardaker "Við komum hingað til að afla fjár til ferðalaga."

# kendur hafa samtök um nað í Grindavík

rauður fjólublár o.s.frv. Það heyrir til undantekninga ef minna en 2 - 3 göt eru á veggjum. Það kemur ekki að sök því við troðum bara plastpokum í götin.
Maturinn er góður, góð ráðskona. Hann er hins vegar nokkuð dýr, 3000 kr. á dag. Atvinnurekandinn segir hins vegar að hann borgi helming á móti. Fyrir þann pening ættum við að geta fengið kalt borð og snittur og fleira góðgæti.

Sheila Hardaker

tók næst til máls. Hún sagði: Við erum hér 9 nýsjálenskar stúlkur í Grindavík. Við komum hingað til Íslands til að safna peningum til ferðalaga. Það hefur ekki tekist. Við höfum litlar upplýsingar fengið um t.d. skatta, bónuskerfi og fréttum af því fyrst í síðustu viku að til væri kauptrygging sem maður gengi inn í eftir mánaðar starf. Við höfum hins vegar unnið hér í þrjá



kom fram
r frá fundi farandverkafólks
fengnar að láni frá Baráttu-
fólks.

frekar inn og eldum sjálfar. Það hafa líka margir Íslendinganna gert.
Nú munu u.þ.b. 300 erlendir verkamenn vera á íslenskum verstöðvum og margir fleiri væntanlegir þegar vetrarvertíðin fer af stað. Það þarf að þýða kjarasamninga fyrir þetta fólk á ensku, og gera ráðstafanir til að fræða það um réttindi þeirra. Einnig væri gott af það fengi einhverja kennslu í íslensku. Aðbúnaðinn þyrfti líka að bæta stórlega.

Af framsögu loknum flutti Bubbi Morthens farandverkafólksballöður á þann hátt sem honum einum er líkur. Það má mikið vera ef Bubbi á ekki efni í eina eða tvær breiðskífur.

Karl Steinar Guðnason var þarna á fundinum og tók fyrstur til máls í almennu umræðunum. Hann fagnaði starfsemi farandverkafólks, hugsunarhátturinn væri að breytast ekki síst vegna hennar. Þá las hann upp þingsályktunartillögu og greinargerð með henni sem hann hafði lagt fram sama dag í Alþingi um málefni erlends farandverkafólks.

Jón G. Björnsson, form. Verkalýðsfélagsins á staðnum sagðist vera mótfallinn því sem fram hefði komið að hluti félagsgjalda farandverkafólks rynni til skrifstofu Baráttuhópsins.

Þorlákur Kristinsson leiðrétti Jón og sagði að ætlunin væri að óska eftir frjálsu framlagi, það væri gífurlegur kosnaður samfara starfi Baráttuhópsins, sem menn hefðu fram að þessu borgað úr eigin vasa. Þá sagði Þorlákur að farandverkafólkið ætti að kjósa sér trúnaðarmenn á hverri stöð, sem hefðu samráð sín í milli og samráð við verkalýðsfélagið.
Þá sagði Þorlákur að ekki hefði staðið á stuðn-

ingsyfirlýsingum af hálfu verkalýðsforystunnar. Hins vegar væri seinagangur hennar til aðgerða óviðunandi. Farandverkafólk ætlaðist til að kröfur þeirra væru forgangskröfur. Það mætti ekki versla með þær. Þær stæðu á það sterkum siðferðislegum grunni.

Jón Árnason sagðist vinna á Þorkötlustöðum. Þar væri aðbúnaðurinn vægast sagt hörmulegur. Menn þyrftu t.d. að troða pokum upp í göt á gluggum. - Ég trúi á þessi samtök" sagði Jón.

Björn Gíslason sagði að erlent farandverkafólk væri litlu bættara með þingsályktun Karls Steinars. Réttindi farandsverkafólks þyrftu í heild að batna. Á meðan svo væri ekki gagnaði jafnrétti lítið.
Þá gerði Björn grein fyrir skýrslum sem teknar hefðu verið saman um aðbúnað í hinum ýmsu verbúðum í Grindavík. Þá nefndi hann ýmsar tölur um fæðiskostn-

Páll sagði að þóti hans fyrirtæki, Vísir, ætti ekki aðild að neinu atvinnurekendafélagi þá tæki hann þátt í þessum samtökum.

Karl Steinar stóð upp og gagnrýndi það neikvæða hugarfar sem ríkti hjá sumum í garð verkalýðsforystunnar.

Þorlákur Kristinsson sagði það ekki nema von að menn væru neikvæðir. Farandverkafólk fengi heillaóskaskeyti án þess að nokkurt breyttist. Farandverkafólk væri nú einu sinni þannig að það tryði ekki hlutunum fyrr en það fengi að þreifa á þeim.
Þá spurði Þorlákur og horfði fast á Pál Pálsson hvort atvinnurekendur gætu ekki bundist samtökum um að bæta aðbúnaðinn í verbúðunum.

Jósep Kristjánsson, fundarstjóri, fagnaði því að atvinnurekendur og verkalýðsforystna hefði mætt á fundinn. Það væri mikil

nýjung. Það sem farandverkafólk krefðist v. i ekki ályktanir heldur úrbætur.

Páll Pálsson sagðist vera mikið hlynntur því að farandverkafólk kysi sér trúnaðarmenn. Þessum trúnaðarmönnum væri guðvelkomið að funda í bragganum hjá sér ef þeir hafa lyst á því. Þessu var ákaft fagnað.

Helga Einarsdóttir sagðist sitja í heilbrigðisnefnd Grindavíkur. Hún vildi fá afrit af skýrslum þeim sem teknar hefðu verið um aðbúnað í verbúðum í Grindavík til þess að hún gæti sent heilbrigðisnefnd Suðurnesja til umfjöllunar.

Að umræðum loknum var borin upp ályktun á íslensku og ensku þar sem kröfur farandverkafólks voru ítrekaðar og Sjómannasambandið m.a. gagnrýnt fyrir neikvæða afstöðu - þegar tekið er tillit til þess að helmingur allra sjómanna á Íslandi eru farandverkamenn. Ályktunin var samþykkt í einu hljóði.



Hluti fundarmanna. Fundargestir voru á 6. tug.

Bubbi Morthens.

## lesendabréf

Agreiningsmál 8. mars hreyfingarinnar og Rsh.

1. Í örstuttu máli álítum við að helst muni bera á milli í afstöðunni til fjölskyldunnar. Oft hefur komið fram í skrifum frá einstaklingum í Rsh. að kjarnafjölskyldan sé undirrót kvennakúgunar. Eftir því að dæma nálgumst við óðfluga sósíalisma, því skilnuðum fjölgar svo

### *Kommúnur oft skemmtilegri*

Einu sinni heyrði ég konu úr EIK (m-l) halda því fram á fundi að alþýðan væri á móti kommúnum og því bæri kommúnistum að vera það. Ekki er mér ljóst hvort alþýðan er það en mér finnst að kommúnistar eigi að vera hlynntir og styðja það sem horfir til bóta. Ýmis önnur sambýli en ein kjarnafjölskylda í íbúð eru ódýrari og oft skemmtilegri, en um leið krefjast þau meiri tillitssemi af fólki. Ég vildi gjarnan heyra eitthvað meira um þetta mál í Verkalýðsblaðinu auk þess sem mér finnst snúið útúr fyrir Rauðsokkum í VBL nr. 2 '80 í meðfylgjandi úrklippu. Lesandi.

# Steypum Stalín af stallinum

Við marx-lenínistar höfum hingað til ekki verið nógu gagnrýnir á þá 5-menninga, Marx, Lenín, Engels, Stalín og Maó. Þeir voru ekki guðir, heldur menn. Þeir voru allir þjóðfélagsvísindamenn, en þó misjafnlega færir. Allir voru þeir börn síns tíma og hluti af sínu umhverfi. Þeir voru miklir brautryðjendur á sviði þjóðfélagsvísinda og stjórnmála, ekki ósvipað og Galileo, Einstein, Newton, Darwin o.fl. voru á sviði náttúruvísinda.

Þótt kjarninn í kenningum allra þessara manna hafi staðist próf reynslunnar, þá hefur ýmislegt reynst vera rangt og ófullkomið.



### Kommúnistarnir villtust

Kommúnísk hreyfing og kommúnísk stefna hafa beðið mikið afhroð hérlendis og víðast hvar í heiminum síðustu áratugi. Líklega er Kína eina undantekningin, en það vígi gæti þó hæglega fallið. Hvernig stendur á þessu? Er sósíalismi og kommúnismi orðinn úreltur? Er auðvaldsskipulagið svona öflugt og ósigrandi?

Nei, því fer fjarri. Auðvaldskerfið stendur eftir sem áður á brauðfótum og stefnir hraðar að eigin tortímingu en nokkru sinni fyrr. Mér sýnist þörfin fyrir félagshyggjuskipulag aldrei hafa verið meiri og efnahagslegar forsendur þess aldrei betri.

Við erum komin svona skammt áleiðis fyrst og fremst vegna þess að kommúnistarnir, sem áttu að vera í fararbroddi, hafa villst af leið. Þeir hafa gert alvarleg mistök. Hver þá helst?

### Villur kommúnista

Í fyrsta lagi hafa þeir oft á tíðum ekki sett traust sitt á fjöldann af vinnandi fólki, heldur á fáeina forystumenn og fámennar forystusveitir, sem hafa slitnað úr tengslum við fjöldann.

Í öðru lagi hefur byltingaróþreyja ekkert ráðrúm gefið fyrir tímafrekt uppeldi fjöldans í opnum og einlægum skoðanaskiptum og þá um leið lýðræðislegum aðferðum við stefnumótun og stjórnun jafnt smærri sem stærri eininga þjóðfélagsins. Afleiðingin varð sú, að nýtt einræði og ný stéttarkúgun gat vaxið upp á rústum þeirrar gömlu.

Í þriðja lagi hafa sættanlegar þjóðfélagsmóthverfur milli ólíkra hópa alþýðufólks og ólíkra skoðana ekki verið rétt aðgreindar frá ósættanlegum móthverfum og hafa hlotist af fjöldaaftökum og mjög skaðlegri skoðanakúgun.

Í fjórða lagi hefur vísindaleg aðferð díalekískrar efnishyggju oft orðið að lúta í lægra haldi fyrir gömlum hefðbundnum trúarkreddum og alhæfingum. Að þessu leyti hefur tekist betur til innan náttúruvísindanna, enda hafa orðið gífurlegar framfarir þar.

### Guðinn Stalín

Allar þessar 4 meginvillur gerði Stalín í mun stærri mæli en nokkur hinna frumkvöðla marxismans. Hann var í raun foringi allrar heimshreyfingar kommúnista allan 4. og 5. áratuginn (gegnum Komintern, Alþjóðasamband kommúnista), einmitt á þeim tíma sem hreyfingin reis hæst í Evrópu. Þær villur, sem Stalín gerði á þessu blómaskeiði félagshyggjunnar urðu því gífurlega afdrífaríkar fyrir allan heiminn. Ef Maó Zedong hefði ekki hunsað sumar tilskipanir Kominterns, má telja ólíklegt að sósíalisminn hefði sigrað í Kína. Komintern hafði einnig mikil áhrif á stefnu Kommúnistaflokks Íslands á þessum tíma.

### Hættum að apa eftir Stalín

Í grein M.Sn un 100 ára minningu Stalíns í VBL. 1. tbl. 1980 er goðið Stalín ennþá á stallinum. Um það vitna niðurlagsorðin:

"Minning Stalíns mun lifa og framlag hans til baráttu verkalýðs og kúgaðrar alþýðu verður lengi notadrjúgt vopn."

M.Sn. talar þó um "að draga lærdóm af verkum hans í ljósi reynslunnar og sögunnar". Það tel ég vera kjarna málsins. En mig grunar að sá lærdómur sé ekki hvað síst fólginn í því að uppræta villurnar, sem Stalín hefur gróðursett í stefnu kommúnista um heim allan.

Ég er mikið sammála M.Sn. um að Stalín hafi verið ólíkt betri en núverandi valdhafar Sovétríkjanna og tel því mjög skiljanlegt að alþýða Sovétríkjanna vilji haldi upp á 100 ára afmæli hans. En á okkar tímum, í okkar heimshluta er brýnasta verkefnið að hætta að apa eftir Stalín, en horfast þeim mun fastar í augu við ískaldan veruleikan sem við okkur blasir og fara að hugsa meira með eigin höfðum. Og hana nú.

Hans heppni

# um kvenna-vanda-málið

Ég get ekki orða bundist vegna fyrirsagna blaðsins yfir greinum í 1. og 2. tbl. VBL '80. Í báðum þessum blöðum er fjallað um kvennabaráttu. En í fyrirsögnunum heitir það ekki kvennabarátta heldur "kvennaspurning" og "kvennavandamál"???

Ég bara spyr. Eru konur allt í einu orðnar vandamál í augum aðstandenda Verkalýðsblaðsins?

Ég vona að þetta endurspegli ekki almennt afstöðu félaga Einingarsamtakanna til kvenna. En óvart hvarflar það að mér þegar ég sé þessar fyrirsagnir - loksins þegar séð er af örlitlu plássi og svertu í það að hleypa af stokkunum lágmarksumræðu um kvennabaráttu.

Ég ætla líka að taka eindregið undir lokaorð "húsmóður" í 2. tbl. VBL '80 þegar hún hvetur karlkomma til að stíga það stórkostlega mikilvæga skref sem það er þegar þeir átta sig á þessum uppeldislega og þjóðfélagslega sprottna arfi sem þeir burðast við að halda í og sem knýr þá til að líta á sig sem mikilvægari í öllu pólitísku starfi. Því þegar litið er til langs tíma á baráttuna fyrir sósíalisma, þá er það okkur öllum í hag að karlkommar fari sér ögn hægar í pólítísku starfi sínu og gefi konum sínum þeim mun fleiri tækifæri út frá börnum og búi. Í fljótu bragði kann það að virðast hefta baráttuna og fjarlægja takmarkið. Svo er ekki. Eins og flestir vita eru konur helminingur mannkyns og hætt er við að kommúnistar nái aldrei langt ef sá ágæti helmingur sýnir ekki fulla samstöðu í baráttunni fyrir betri heimi.

**fávís kona.**

Ég þakka "fávísri konu" tilskrifið. Fyrirsagnirnar verða víst að skrifast á minn reikning. Ég hef notað þessi orð "kvennaspurning" og "kvennavandamál" jöfnum höndum og hugsunarlaust frá því ég snerist kvenmannslaus og grænn til byltingarstefnu fyrir u.þ.b. 9 árum. Orðið kvennavandamál vekur greinilega óheppileg hugmyndatengsl. Það gefur í skyn að það séu konurnar en ekki misréttið sem sé vandamál, það verði leyst með því að afnema konurnar en ekki misréttið.

Ég er ekki sammála "fávísri konu" að orðið kvennabarátta sé heppilegra í þessu samhengi. Það gefur jafn óheppilega í skyn að annaðhvort sé þetta innbyrðis barátta kvenna eða þá að konurnar standi einar í baráttunni, auðvitað verður "vandamálið" ekki leyst nema með sameiginlegu átaki karla og kvenna. Sömuleiðis er ég óhress að þurfa alltaf að tala um baráttu-baráttu-baráttu. Lífið getur líka verið rólegt.

Ég sting upp á því að framvegis tölum við eins og menn gerðu hér fyrr á öldinni um jafnréttismál og jafnréttisbaráttu og kvenfrelsismál og kvenfrelsisbaráttu. Þarna höfum við 4 góð og gild íslensk orð sem öll eru pólitískt nákvæm og hafa nauðsynlegan blæbrigðamun. ritstj.

# Jarðbundin kvennabarátta

Fáein orð um kvennabaráttuna. EIK(m-l) eru kommúnísk samtök. Þeim ber skylda til að gera sem flestar konur að kommúnistum og marxistum. Þeim ber líka skylda til að styðja, efla og skipuleggja hvers kyns baráttu í hag konum. Til þessa þarf "taktík" eða þjálar baráttuaðferðir vegna þess að gnótt er af röngum hugmyndum í kvennahreyfingunni. Þar að auki hafa kommúnistarnir sjálfir rangar hugmyndir um margt í málefnum kvenna. Til dæmis þarf mikið framlag innan EIK-ar til að uppræta rangindi í garð kvenna.

Mér finnst að fjölbreyttir starfshættir og margvíslegt skipulag eiga við svona víðtæka baráttu. Að því leyti er ég sammála miklu af því sem Hergeir segir í 1. tbl. VBL. Sem betur fer hafa eikarar lært að 8. mars hreyfingin ein getur ekki gegnt hlutverki allra kvennasamtaka og allrar kvennabaráttu sem þörf er á. Ég álít 8. mars hreyfinguna hafa ýtt á Rauðsokkahreyfinguna til góðs og ég álít að eikarar og nokkrar baráttufúsar konur hafi lært til góðs af starfi 8.mhr. Það er því ómögulegt að segja að alrangt hafi verið að stofna hreyfinguna. Hún hefði betur þróast hraðar í sömu átt og nú.

Þjóðfélagsbarátta er meira eða minna lömuð án þátttöku kvenna. Þá er líka margt óþolandi við stöðu kvenna í íslensku þjóðfélagi og hver kannast ekki við vandamál úr sambýli karla og kvenna?

Ef EIK (m-l) ætla að sinna hlutverki sínu og taka til viðbótar tillit til allra aðstæðna og verkefna verða samtökin að:

1. Starfrækja eigin kvennanefnd og leggja rækt við kommúnískt kvennastarf innan samtakanna og utan.
2. Beita sér fyrir lýðræðislegri ákvörðun 8.mhr. um að leggja hana niður og hefja starf með Rauðsokkahreyfingunni.
3. Beita sér fyrir víðtækum samfylkingum í samvinnu við sem flesta aðila um ákveðin baráttumál - allt frá borgaralegu stjórnmálaflokkunum til sérstakra kvennasamtaka.

Starf með Rauðsokkahreyfingunni er rétt vegna margra ástæðna. M.a. eflist með því skoðanabarátta og framfarir ættu að geta orðið í baráttumálum þar sem Rsh. hefur þegar framsækna afstöðu. En ég legg á það mikla áherslu að kommúnistar mega ekki gerbreyta greiningu sinni á Rsh. eða gerast jábræður (-systur) endurskoðunarstefnu til að "réttlæta" þátttöku sína eða "vinna sig í álit". Kvenremba, ýmis frávik frá framsækinni afstöðu og grófar falsanir á marxisma hafa lengi þrifist í kvennahreyfingunni (og náð inn í marx-lenínísku hreyfinguna). Árangur næst annars vegar með einingu og samstarfi - hins vegar með baráttu. -agé.



Frá kappræðufundi EIK (m-l) og Rauðsokkahreyfingarinnar síðastliðinn vetur.

## Ekki Rússar

Mér finnst þið klifa um of á Rússum og rússnesk-um, – eða amerískum.

Rússar eru þjóð í Sovét-ríkjunum og bera sem slík enga ábyrgð á framferði Sovétríkjanna. Nota á sov-éskur, o.s.frv. Ameríkanar eru allir í S og N-Ameríku. Í Bandaríkjunum búa Banda-ríkjamenn. Nota á banda-rískur o.s.frv.

A.

Athugasemd frá ritstj.

Ég er ósammála A. í þessu máli. Þegar við tölum um útþenslustefnu Rússa, þá erum við ekki að skella skuldina á rússnesku þjóð-ina. Rússar eru ekki bara ein þjóð í Sovétríkjunum. Valdhafar í Kreml nota stórrússneska þjóðrembings-stefnu til að kúga þjóðir Sovétríkjanna. Að tala um t.d. innrás Rússa í Afganis-tan höfðar því einnig til innanlandsástandsins í Sovétríkjunum.

Ameríkani og Bandaríkja-maður hafa í munni íslend-inga verið eitt og hið sama um áraraðir. Ameríkani hefur m.a.s. verið meira notað, enda auðveldara að stytta það heiti, sbr. Kani. Sam-heiti yfir allar þjóðir Vesturálfu er sjaldan notað af ýmsum ástæðum, helst notað við orðið Ameríkumenn, Vesturálfubúar o.þ.h.

## „Hræðsla við dóm fjöldans"

Ég þakka Ara T. Guðmunds-syni svarið í síðasta VBL. En ég verð þó að segja að ég held að hann skilji alls ekki gildi 480 atkvæða miðað við aðstæður á Ís-landi. Hér er um að ræða 480 framsækna einstaklinga og það er stór hópur miðað við stærð framsækinnar hreyfingar. Þó að þetta fólk hafi greitt atkvæði sitt til Fylkingarinnar í stað þess að skila auðum seðli megum við ekki ganga út frá því sem vísu að þetta sé allt hið versta hentistefnufólk. Mér finnst það mjög rökrétt að greiða atkvæði sitt til róttækasta flokksins sem er í framboði í stað þeirrar uppgjafar sem felst í því að skila auðu.

Og það er kjarni máls-sins. Stefna EIK (m-l) í kosningunum var uppgjafar-stefna. Þau þorðu ekki að leggja stefnu sína fram fyrir alþýðufólk. Ari vill geyma framboð það til það verður nógu vandað. Mér sýnist formaður EIK (m-l) nota fögur orð til að fela hræðslu sína við dóm fjöld-ans. Stefna EIK (m-l) verð-ur ekki vönduð fyrr en EIK (m-l) þora að leggja hana fram og láta reyna á hana. Með framboði hefðu EIK (m-l) gefið framsæknu fólki komm-únískan valkost: andstöðu við troskisma Fylkingarinn-ar og atkvæðatölur hefðu getað veitt EIK (m-l) upp-lýsingar um raunverulega stöðu sína. Útkoma kosning-anna – hver sem hún hefði orðið – hefði getað orðið EIK (m-l) hvatning í bar-áttunni gegn einangrunar-stefnunni.

Kjósandi.

### Mest áhersla á fram-leiðniaukningu

Í umræðum um tillögur Abl. hefur mest áhersla verið lögð á hugmyndir þess um 12–17% framleiðniaukningu í sjávarútvegi á næstu 2 ár-um og 33% framleiðniaukningu í iðnaði á næstu 3 árum. VBL hefur ekki aðstöðu til að meta hvort þessi markmið séu raunhæf eða hvort þau verki til verðhjöðnunar. Þó eru líkur á að svo sé, þrátt fyrir hamagang hinna borg-araflokkanna og þjóðhags-stofnunar gegn þeim. Fyrir verkafólk í landinu er það þó aðeins önnur hlið máls-ins. Hin hlið málsins er: Verða aðferðir Alþýðubanda-lagsins til að hemja verð-bólguna á kosnað launafólks? Alþýðubandalagið segir nei.

Það er þó ekki hægt að gefa með öllu einhlítt svar við þessari spurningu, a.m.k. ekki fyrr en tillög-urnar hafa verið skoðaðar nánar.

### Forsendur Abl.

Abl. gefur sér þær for-sendur að meðaltalsnýting í fiskiðnaði sé 36% í dag. Að mati fræðinga er 48% hins-vegar hámarksnýting. Auk þess gefur flokkurinn sér að framleiðni í ýmsum greinum iðnaðar sé "aðeins um 60% af því sem gerist á hinum Norð-urlöndunum." Lítum fyrst á fiskveiðar.

### Niðurskurður eða rán-yrkja

Það sem dregur í dag einna helst úr framleiðni fiskveiðaflota landsmanna er í fyrsta lagi fjöldi báta og togara og í öðru lagi einhæfni þeirra. Auk þess setur fiskurinn í sjón-um afkastagetu flotans ákveðin takmörk.



Tillögur Alþýðubandalagsins, 1. hluti

# „Komi til fækkunar starfsmanna . . ."

"Komi til fækkunar starfsmanna verður að tryggja þeim er víkja sambærileg störf á öðrum vettvangi" segir "verkalýðsflokkurinn" Alþýðubandalagið í tillögum sínum í efnahags-málum. Huggunarrík orð það, en ekki laust við að kaldranalegur málmhljómur komi í röddina þegar maður hefur þau yfir.

Þótt misviðrasamt sé í stjórnmálaheiminum þessa daganna, þá verður ekki sagt að tillögu-flutningur Abl. úreltist. Hann sýnir glöggt hugsanagang þeirra sem þar móta stefnuna. Auk þess verða íslenskir kommúnistar, nauðugir viljugir, að taka aðstöðu til hans.

Nú og í næstu blöðum munum við gera til-lögum Abl. nokkur skil og meta þær með hlið-sjón af hagsmunum launafólks.

Aukinni framleiðni í út-gerð verður því náð með þremur aðferðum helst:

a. Ofveiði og rányrkja, sem síðar meir leiðir til fiskleysis og at-vinnuleysis.

b. Fækkun báta og togara, sem þýðir uppsagnir og minni eftirspurn eftir vinnuafli, þ.a.l. minna kaup.

c. Endurnýjun bátaflotans með tilliti til auk-innar fjölhæfni. Það þýðir að bátarnir verða fljótari að skipta yfir á nýjar tegundir veiða og úthaldsdögunum fjölgar. Þessi leið getur þó ekki orðið án fækkunar nema rányrkjan verði aukin að sama skapi. Það þýðir hærra kaup hjá færri sjómönn-um.

Aðferðir, s.s. sparnaður (t.d. með svartolíubrennslu o.þ.h.) og rekstrarhagræð-ing innan útgerðarfyrirtækja koma einnig til greina. Benda má á að síðara atriðið stefnir enn frekar í átt til einokunar, stærri fyrir-tækja, [illegible]gri (og gróða-fíknari) atvinnurekenda. Nánar um það síðar.

Í næsta hluta þessarar greinar verður fjallað um framleiðniaukningu í fisk-iðnaði og almennum iðnaði og rætt um hvaða áhrif það hefur á kjör fólksins í landinu. Í þriðja hluta munum við fjalla um aðrar tillögur Alþýðubandalagsins.

Allar tilvitnanir eru úr tillögum Alþýðubanda-lagsins jan. 1980, þrem fjölrituðum heftum, nema annars sé getið. óhs.

## Uppstokkun

frh. af bls. 4.

borgarastéttarinnar annars vegar og hins vegar frjáls-lynds og jafnvel þjóðlegs arms flokksins. Geir Hall-grímsson og Gunnar Thor-oddsen eru að meira og minna leyti persónugerving-ar þessara tveggja arma.

### Skrekkur kratanna

Í umræðum um stjórnar-myndun Gunnars hefur, eink-um meðal svæsinna íhalds-manna og krata, borið á þeirri skoðun að um sé að ræða tímabundna uppákomu, sem muni renna út í sandinn með pólitískri einangrun Gunnars og fylgismanna hans. Hér verður ekki tekið undir þá skoðun. Hins veg-ar er skiljanlegt að krat-ar haldi henni á lofti. Klofningur Sjálfstæðis-flokksins markar e.t.v. upphafið að banalegu Al-þýðuflokksins.

### Bandalagið í kratadans

A-flokkarnir hafa á und-anförnum áratugum stigið þróunarvalsinn til hægri nokkurn veginn í takt. Það fer óðum að koma að því að Alþýðubandalagið taki við hlutverki sósíaldemókrat-ísku fylkingarinnar að fullu.

Það myndi hins vegar hafa í för með sér endan-legan klofning innan Al-þýðubandalagsins milli róttækra sósíalista og "hægri" manna, klofning sem greina má nú þegar merki um. Fyrir Alþýðu-flokkinn verður hins veg-ar ekkert pláss í flokka-kerfinu.

Það er því ekki nema von að kratarnir láti óskhyggjuna bera sig ofur-liði í umsögnum sínum og tali um að hér sé tjald-að til einnar nætur.

óhs

## Barátta gegn hernámi Afganistan

Einingarsamtök kommúnista stóðu fyrir samfylkingu með nokkrum stjórnmálasamtökum gegn hernámi Sovétríkjanna á Afganistan, eins og fram kom í síðasta tbl. Verka-lýðsblaðsins.

EIK(m-l), KFÍ/ML, SUS, SUF, SUJ og Vaka stóðu síðan fyrir mótmælastöðu utan við sovéska sendiráðið föstudag-inn 1. febrúar. Alþýðu-bandalagið vildi hins vegar ekki binda trúss sitt við íhaldsöflin.

Aðgerð þessara samtaka heppnaðist með ágætum, þótt hún væri frekar fámenn.

Efnahagsstyrkur risaveldanna, 2. hluti

# Ástandið í dag

Því miður urðu þau mis-tök í síðasta tbl. VBL, að ekki var gerð nægjanleg grein fyrir því að hafinn væri greinaflokkur sem fjallaði um efnahagsstyrk risaveldanna og áhrif hans á stríðshættuna.

Hér birtist 2. hluti greinaflokksins, en hann er í 3.hlutum. Í fyrsta hluta sem birtist í 2. tbl. ´80, var gerð stuttleg grein fyrir þeim efnahagslögmálum sem hafa bein áhrif á að styrjaldir hefjast. Rætt var um að barátta heims-valdaríkja um heimsmarkaði og mishröð þróun þeirra gerði heimsstyrjaldir að óhjákvæmilegri fylgju heimsvaldastefnunnar.

Í dag stendur meginbar-áttan um efnahagsleg og pólitísk heimsyfirráð ljós-lega milli Bandaríkjanna og Sovétríkjanna. Á 6. áratug-num steinhættu Sovétríkin við sósíalískan sjálfs-nægjubúskap og köstuðu sér út í samkeppnina um hinn kapitalíska heimsmarkað. Þegar kapitalísk hagsýsla og gróðasókn varð ráðandi í framleiðslukerfinu urðu mjög auknir markaðir utan-lands smám saman að efna-hagslegri þörf. Eftir því sem Sovétríkin leita meira fyrir sér á alþjóðlegum markaði rekast þau oftar á vegg sem erfitt er að kom-ast yfir, en það er banda-rískt fjármagn og áhrif þess.




### Framleiðslugeta risanna

Ef skoðuð er framleiðslu-geta risaveldanna tveggja kemur í ljós að mjög dregur saman með þeim. Lítum þá fyrst á töflu með samanburði á brúttó þjóðarframleiðslu:

Þjóðarframleiðsla Sovét sem prósenta af þeirri bandarísku:

| | 1950 | 1970 | 1977 |
|---|---|---|---|
| Bandaríkin | 100 | 100 | 100 |
| Sovétríkin | 31 | 65 | 67 |

Eins og hér sést hefur þjóðarframleiðsla Sovét á þessum árum aukist úr einum þriðja í tvo þriðju af þeirri bandarísku. Hluti Sovétríkjanna af iðnaðar-framleiðslu heimsins jókst á árunum 1955 – 1970 úr 15% í 22,5% á meðan hluti Bandaríkjanna minnkaði úr 38,6% í 27,3%.

Ef tekin er fyrir hern-aðarlega mikilvæg fram-leiðsla, s.s. járn, stál, sement, ál og orkufram-leiðsla verður tilhneig-ingin enn skýrari. Þar eru Sovétríkin víða kom-in vel fram úr Bandaríkj-unum (járn, stál og sem-ent) og á öðrum sviðum er munurinn orðinn mjög lítill.

Tilhneigingin er því aug-ljós: "Gamla" risaveldið, Bandaríkin, fer mjög halloka fyrir því "unga" Sovétríkj-unum. Ef þetta er borið saman við þróun framleiðslu-getu Englands og Þýskalands á 4. áratugnum, fram að stríði, sést hversu sláandi lík sú þróun er.

VBL Áskrift greiðist á gíró 12200-9
Lausasala: kr. 300
1. árs áskrift: kr. 5.000
Stuðningsáskr: kr. 10.000
Áskr. til útl: kr. 8.500



*Starfshópur um Kampútseu*

# – Vilja vekja upp hreyfingu til stuðnings Kampútseu


Ingólfur Gíslason

Innrás Sovétríkjanna í Afganistan hefur opnað augu margra fyrir raunverulegri stöðu þeirra í heimsmálum þ.e. sem heimsvaldasinnaðs risaveldis. Kommúnistar hérlendis hafa árum saman reynt að benda á þetta atriði en án mikils árangurs. Að undanförnu hefur sérstök áhersla verið lögð á að kynna framferði Sovétríkjanna í Indókína þar sem þau hafa stutt og staðið á bakið við útþenslustefnu Víetnama. Mesta athygli hefur þar vakið hernám Kampútseu.

Í nokkra mánuði hefur nú starfað hérlendis óformlegur hópur manna sem hafa haft áhuga á málefnum Kampútesu og viljað leggja sína lóð á vogarskálar lausnar þeirrar þjóðar undan hernámsokinu. Tíðindamaður Verkalýðsblaðsins hitti að máli einn meðlima hópsins, Ingólf Gíslason, og innti hann fyrst eftir markmiðum hópsins.

IG – Markmið okkar er í sem stystu máli að reyna að vekja upp hreyfingu sem berðist fyrir þeirri kröfu að Víetnam dragi her sinn út úr Kampútseu og Khmerar fái sjálfir að ráða málum sínum.

VBL – Og hvernig hyggst hópurinn vinna að þessum markmiðum?

IG – Hingað til er það aðallega þrennt sem gert hefur verið. Í fyrsta lagi má nefna blaðaskrif og aðrar tilraunir til að koma skoðunum okkar á framfæri í fjölmiðlum. Er þar raunar við ramman reip að draga því í lykilstöðum á mörgum fjölmiðlum sitja menn sem hafa ákveðið hvað sé rétt og hvað rángt í þessu máli og þeirra skoðanir eru það eina sem heyrast má. Ég vil hér sérstaklega nefna sjónvarpið sem gagnrýnislaust sýnir hverja áróðursmynd stuðningsmanna hernámsins á fætur annarri en neitar jafnframt öðrum að sýna aðra hlið málsins. Þá virðist einnig útilokað að aðrir en Elín Pálmadóttir og Gunnar Eyþórsson fái að láta ljós sitt skína í umræðum í sjónvarpinu.

Í öðru lagi söfnuðum við undirskriftum meðal þekktra Íslendinga undir ávarp sem alþjóðleg ráðstefna í Stokkhólmi sendi frá sér þar sem hvatt var til alþjóðlegrar samstöðu gegn innrásinni. Sú söfnun gekk sæmilega en varð ekki sá aflvaki umræðu sem við vonuðumst eftir.

Í þriðja lagi höfum við svo haft leshring um Kampútseu fyrr og nú, fyrst og fremst til að auka þekkingu og skilning á sögu og vandamálum þessa langhrjáða lands.

Hvað nú tekur við er ekki fullljóst, en uppi eru hugmyndir um m.a. að gefa út bækling með helstu upplýsingum um land og þjóð. Þar yrðu einnig ýmsar erlendar skýrslur og frásagnir sem vandlega hefur verið þagað um hérlendis enda gefa þær aðra mynd en hér er viðtekin.

VBL – Eruð þið aðdáendur stjórnarfars Pol Pot tímabilsins?

IG – Innan hópsins eru ýmsar skoðanir uppi um það tímabil sem kennt er við Pol Pot. Ljóst er allavega að við erum ekki þeir sem Þjóðviljinn segir hafa álitið Kampútseu þess tíma fyrirmyndarríki. Hitt er annað mál að trúlega ekkert okkar tekur undir þann sefasýkislega áróður sem dunið hefur á stjórn Pols Pot enda auðvelt að hrekja megnið af því. Í mörgum tilfellum mun þó hafa verið gengið fram af fullmikilli hörku og "vinstri róttækni" verið þó nokkur í uppbyggingarstarfinu. En það er ekkert skilyrði samstarfs við hópinn að hafa þetta álit á Pol Pot. Við sameinumst um þá einu kröfu að Kampútseumenn fái sjálfir að ráða málum sínum og skyldi maður ætla að það væri krafa sem lítil eyþjóð eins og Íslendingar gæti tekið undir.

VBL – Eruð þið útibú frá EIK(m-l)?

IG – Nei, það erum við ekki. Með hópnum hafa vissulega starfað eikarar og mættu vera fleiri, en í hópnum er fólk hingað og þangað að, óbundið öllum flokkum og hreyfingum. Hópurinn heyrir ekki undir miðstjórn EIK(m-l). Einingarsamtökin styðja hins vegar þetta starf eftir mætti en þau styðja líka Samtök herstöðvaandstæðinga án þess að þar sé um útibú að ræða.

VBL – Að lokum, ef einhver lesandi vildi kynnast hópnum nánar, fá upplýsingar eða starfa með, hvert á hann að snúa sér?

IG – Hann hefur þrjá möguleika. Hann getur sent erindi sitt bréflega í pósthólf 571, 121 Reykjavík, merkt "Kampútseuhópur" eða hann getur hringt í Þorstein Helgason s. 26532 eða Hjálmtý Heiðdal s. 75033.

Verkalýðsblaðið vill hvetja þá lesendur sína sem áhuga hafa og tíma, til að setja sig í samband við hópinn og bendir jafnframt á að Októberbúðin á mikið úrval bóka og bæklinga um Kampútseu og málefni SA-Asíu á mörgum málum. Brynjum okkur með þekkingu og færum hana út í starf.

---

# Hvernig metum við kröfugerð ASÍ?

Það er slæmt að Verkalýðsblaðið skuli ekki fyrr hafa birt heildarmat á kröfugerð ASÍ, sem lögð var fram á kjaramálaráðstefnu sambandsins í janúar. Í þessu yfirliti verður reynt að stikla á því helsta sem þar kom fram.




Grunnkaupskrafan

Krafa ASÍ um 5% almenna grunnkaupshækkun er uppgjöf af hálfu sambandsins í upphafi baráttunnar. Með reiknikúnstum komast forkólfar ASÍ að því að hún þýði "samningana í gildi". Í desember héldu þeir því sjálfir fram að kaupránið frá gerð sólstöðusamninganna væri á bilinu 13 – 17%. Með því að draga frá þessari tölu "félagsmálapakka" (sem raunar er ógjörlegt að umreikna í krónur), olíustyrk, skattahækkanir sem hætt var við o.fl. mátti koma henni niður í 5%.

Annars staðar í blaðinu er vikið að því að "hógværð" þessa megi rekja beint til stjórnmálaástandsins og tillagna A-flokkanna um engar grunnkaupshækkanir og 0,5 – 5% kjaraskerðingu á þessu ári.

Verðbótakerfi ASÍ

Krafa ASÍ um fyrirkomulag verðbóta miðast við að "verðbæturnar reiknist af óskertri framfærsluvísitölu..." Þetta er líkast til eini sólskinsbletturinn á þeirri kröfugerð. Að öðru leyti á að greiða fasta krónutölu miðað við 300.000 kr. mánaðarlaun á laun upp að þeirri tölu; hlutfallslegar verðbætur á að greiða á laun milli 300 og 400 þúsund kr. og fasta krónutölu miðað við 400. þúsund kr. á að greiða á laun yfir þeirri upphæð.

Þrír stórir meinbugir eru á þessari kröfugerð:

Í fyrsta lagi er þessi verðbótaregla miðuð við að hún gildi fyrir öll stéttarsambönd, ekki aðeins ASÍ. Reyndar er það svo að þessi meðferð á vísitölunni veldur fyrst og fremst skerðingu hjá hópum utan ASÍ. Það er ekki eitt af hlutverkum ASÍ að segja öðrum stéttarsamböndum fyrir verkum. Það er ekki annað en frekleg afskipti af málefnum hópa sem á engan hátt lúta stjórn ASÍ

Í öðru lagi veldur þetta ekki þeirri launajöfnun sem forsvarsmenn ASÍ láta svo mikið yfir. Sífellt fleiri afla æ stærri hluta launa sinna með bónus og ýmiss konar álögum. Þær greiðslur munu á engan hátt skerðast og þess vegna kemur þessi verðbótaregla ASÍ fyrst og fremst niður á fastlaunafólki. Með þessari grein birtist línurit sem Rögnvaldur Ólafsson dósent lét gera og birtist með grein hans í Morgunblaðinu 26. jan. s.l. Það sýnir glögglega hverjar breytingar verða á kaupmætti launa fastlaunamannsins annars vegar og kaupaukamannsins hins vegar í 50% verðbólgu, ef kröfur ASÍ ná fram að ganga.

Í þriðja lagi er alfarið rangt að nota verðbótakerfi til að breyta innbyrðis hlutföllum milli launa og minnka kaupmátt launa ákveðinna hópa á samningstímabilinu. Launajöfnun á ekki að vera niður á við – heldur upp á við, hækka lægstu launin meira en þau hæstu.

Félagslegu kröfurnar

Félagslegum kröfum ASÍ verður ekki gerð ýtarleg skil í þessari grein, aðeins stiklað á stóru. Þær eru ljósi punkturinn í kröfugerð ASÍ þrátt fyrir ákveðna galla.

Útgjöld vegna fæðingarorlofs, launagreiðslna til foreldra í veikindum barna og að hluta vegna rýmkaðs orlofsréttar eru færð alfarið á almannatryggingar, í stað þess að láta atvinnurekendur borga brúsann. Trúlega þýðir þessi rýmkaði réttur auknar skattaálögur. Það væri nær að láta sjúkra- og orlofssjóði félaganna standa undir þessum útgjöldum og krefjast hækkunar á framlagi atvinnurekenda til þessara sjóða.

Varðandi skattamál er ekki krafist afnáms skatta af þurftarlaunum, né heldur að elli- og örorkulífeyrisþegar skuli vera skattlausir.

Krafist er afnáms eftirvinnu í áföngum. Sú krafa er gagnslítil ef ekki á sér stað hækkun dagvinnukaups samhliða því.

Sum atriði í kröfugerðinni eru aðeins almennar viljayfirlýsingar, sem yfirleitt hefur lítið þýtt að setja fram. Í heildina má þó segja að náist þessar kröfur fram að verulegu leyti, þá þýðir það töluverða réttindabót fyrir vinnandi fólk.

Ragnar